Gísli Egilsson


# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

7. ár. WINNIPEG, FEBRÚAR 1893. Nr. 12.


## *SÁLMR*

(út af 18. Dav. s.) eftir séra *Valdemar Briem.*

---

Kom þú, minn kæri
kappinn frábæri,
hetjan mín hrausta,
hlífin mín trausta,
hjálp mín og hœli,
herra minn sæli,
ást og inndæli.

Ógn dauðans œddi,
ógn vítis hræddi,
heljar sterk höndin
hart reyrði böndin.
Œpti' eg sem óðr,
óþolinmóðr:
„Heyr, guð minn góðr!“

Skjótt skelfdust grundir,
skalf jörðin undir;
hátt hamrar stundu,
hröpuðu' að grundu;
lék land á þræði,
logaði flœði,
brann drottins bræði.

Hljóp hann á vindum
hám ofar tindum.
Sigu loftsalir,
sortnuðu dalir,
er hinn alvaldi
ásjónu faldi,
hulinn húmtjaldi.

Eldaugu brunnu,
undan ský runnu.
Hátt himnar dundu,
hans raust er fundu.
Örvar út sendi,

eldlega vendi,
herrann úr hendi.

Eygðust hafs undir,
opnuðust grundir;
sá í hafs heima,
hulda jarðgeima.
Hann sterkum höndum
hreif mig úr böndum
lífsins að löndum.

Guð mér braut greiddi,
guð mig vel leiddi,
sterklega studdi,
steinum burt ruddi;
guð mín sár grœddi,
guð mig hervæddi,
krafti mig klæddi.

Flýja burt féndr,
fallast þeim hendr;
farast á flótta
fölir af ótta.
Eins og fis fýkr,
frægð þeirra rýkr,
linnir og lýkr.

Sœtt lof skal syngja
sigrforingja;
dýrt lof skal ljóða
lausnara þjóða;
hátt lof skal hljóma,
hreystina róma,
meðan ljós ljóma.

## Á FÖSTUNNI.

Langafastan er komin í ár; enn einu sinni á æfi vorri upprunnið það tímabil kirkjuársins, sem sérstaklega er helgað endrminningunni um píslarsöguna drottins vors Jesú Krists. Hvervetna í kirkju vorri er þessi sjö vikna föstutíð, sem feðr vorir í trúnni tilsettu á löngu liðinni öld, hátíðleg haldin og nú eins og fyr höfð kristnum mönnum til andlegrar uppvakningar. Heilög alvara fylgir að sjálfsögðu þessu tímabili út af þeim háheilaga og háalvarlega boðskap, er kirkjan þá sérstaklega heldr á lofti. það er eins og tilveran öll hafi yfir sér dökka sorgarblæju um þetta leyti árs. það er eins og blessuð sólin sjálf að meiru eðr minna leyti missi birtu sinnar. Og enda þótt hinn trúaði lýðr kirkjunnar syngi í anda drottni sínum lofsöngva á þessum tíma eins og endranær, þá er þó eins og einhver sorgleg undirrödd

kveði þá við, sem að mestu er þegjandi á öðrum tímum, eða af öllum þorra fólks naumast er tekið eftir. það er sorgarefnið í píslarsögunni frelsarans, langaföstu-boðskapnum, sem kemr þessu til leiðar.

Vér Íslendingar höfum sérstaka ástœðu til að halda upp á þetta tímabil kirkjuársins, langaföstuna, og sporna við því, að það falli í gleymsku og dá. því að í passíusálmum Hallgríms Pétrssonar eigum vér þá guðsorðabók, sem, að því er vér bezt vitum, stendr alveg ein í sinni röð meðal trúarljóða kirkju vorrar á hverju tungumáli sem vera skal. Og oss hefir ávallt fundizt það dýrmæta sálmasafn hafa í sér meira afl til að draga sálir syndugra manna að píslarsögunni drottins en nokkur önnur guðsorðabók. Enda er það víst, að það, sem á liðnum tíðum hefir viðhaldið helgi langaföstunnar meðal kirkjulýðs þjóðar vorrar, er fremr öllu öðru þetta göfuga sálmaverk. Vér vonum, að passíusálmarnir haldist í gildi hjá fólki voru svo lengi sem Ísland er byggt og íslenzk tunga töluð. Og þar með fylgir þá líka sú von, að langafastan æfinlega lifi í trúarmeðvitund Íslendinga.

Ritstjóri blaðs þessa hefir vanalega á undanförnum árum minnzt langaföstunnar. En í þetta skifti hefir hann enn sterkari hvöt til þess en nokkurn tíma áðr, út af því, sem drottinn hefir látið fram við hann koma á síðast liðnu þrauta-tímabili æfi hans.

Upphaf hugleiðinga vorra út af langaföstunni er þá í þetta skifti frásaga guðspjallanna um skírn frelsarans. Sú frásaga er, svo sem kunnugt er, fyrir æfa-löngu gjörð að guðspjalli fyrir sunnudaginn í föstu-inngang. það kemr í fljótu bragði nokkuð undarlega við, að láta föstuna byrja með því guðs orði. það sýnist helzt píslarsögunni algjörlega óviðkomanda. En er betr er að gáð, verðr allt annað ofan á. Og það vildum vér nú gjöra lesendum vorum skiljanlegt.

Vér leiðum þó huga lesenda vorra að því, sem frá er sagt í miðjum 10. kapítula Markusar guðspjalls. Jesús er þar með lærisveinum sínum á síðustu ferð sinni til Jerúsalem. Kvalir og krossdauði beið hans þar í þetta skifti. Lærisveinarnir höfðu hugboð um það, að einhver skelfing biði hans og þeirra. Jesús gekk leiðar sinnar á undan þeim, „en þeir voru mjög felmtrsfullir“, segir guðspjallamaðrinn, „og fylgdu honum með ótta“.

„þá tók hann“, segir guðspjallamaðrinn enn fremr, „þá tólf aftr til sín og sagði þeim, hvað fyrir sér lægi: Sjá, vér förum nú upp till Jerúsalem; þar mun mannsins sonr verða framseldr hinum œðstu prestum og skriftlærðum; þeir munu dœma hann til dauða og framselja hann heiðnum mönnum; þeir munu hæða hann, húðstrýkja, hrækja á hann og taka hann af lífi, en á þriðja degi mun hann upprísa“. Allt í einu snúa þeir brœðr, Sebedeussynir, Jakob og Jóhannes, sér að Jesú og biðja hann að veita sér eina bœn. „Hvers biðjið þér?“ spurði Jesús. „Veittu okkr“, sögðu þeir, „að við megum sitja hvor til sinnar hliðar þér í dýrð þinni.“ Jesús hafði endað spádómsorð sín rétt áðr um það, hvað fyrir sér lægi, með því að minnast á upprisu sína. Allt var það, sem von var, óljóst fyrir lærisveinunum; en þeir trúðu því, að með upprisunni myndi Jesús koma fram í dýrð sinni, að þá myndi Messíasar-ríkið — hið sárt þráða Messíasar-ríki — koma. það var enn í huga þeirra veraldlegt ríki. þeir hugsuðu um Jesúm upprisinn eins og veraldlegan konung, auðvitað inndælan, blíðan, blessaðan, þýðan konung, en þó veraldlegan konung, nýjan dýrðlegan Davíð yfir Ísrael sem sínu ríki, konung yfir hinu ástkæra jarðneska föðurlandi þeirra. Sorgin og kvíðinn hverfr allt í einu úr sálum þeirra, því nú geta þeir ekki um annað hugsað en hið væntanlega dýrðarríki Jesú, og til þess dags, þá er það skyldi upprenna, hlakka þeir svo hjartanlega. — þeir elskuðu Jesúm sérstaklega, þessir tveir lærisveinar, Sebedeussynirnir, og sú sérstaka ást þeirra á Jesú var mjög eðlileg því þeir voru honum svo náskyldir. Móðir þeirra og móðir Jesú voru að öllum líkindum systr. þá langaði líka hjartanlega eftir því, sem marga á ungum aldri eða meðan þeir stóðu í broddi og blóma lífsins fyr og síðar hefir langað til, og sem óneitanlega er bæði eðlilegt og heiðarlegt að menn langi til: að verða miklir menn. þeir treystu Jesú. þeir vissu, að hann gat gjört þá að miklum mönnum. þeir vildu í hinu komanda ríki hans mega standa honum næstir að tign. Og svo báðu þeir nú eins og þeir báðu. Metorðagirnin gægðist hjá þeim fram í þessari bœn. þeir hefði á þeirri stund ekki getað tekið undir þetta bergmál úr 84. Davíðs sálmi:

„Heimsdrottna' að vitja
heimboðs og sitja

háborð við mitt
einskis það met eg
mót því, ef get eg
musteri þitt
fengið að sœkja; þótt sæti' eg þar neðst,
sit eg þér nærri, minn drottinn og gleðst."

Nei, þá langaði svo innilega eftir því, að mega sitja efst í húsi, í ríki drottins.

Nú hverfum vér í huga vorum að skírninni, — ekki skírn Jesú, heldr því, þegar börnin hjá oss eru skírð. Ekki búumst vér við því, að foreldrar barna eða vinir þeirra, sem með þeim taka þátt í að bera þau til skírnar, sé yfir höfuð fyrst og fremst, og því síðr eingöngu, á þeirri stund að hugsa um leyndardóm skírnarsakramentisins. það eru flestir af oss býsna veikir í trúnni á leyndardómsatriði hinnar kristnu opinberunar. Vér skiljum ekki orðið um endrfœðinguna í skírninni; það liggr við, að oss sundli, ef vér förum að reyna að gjöra oss skiljanlegt það í skírnarsakramentinu, sem æfinlega verðr jarðneskum skilningi manna ofvaxið. En hvað sem því líðr, hvort menn eru veikir eða sterkir í trúnni á aðra eins kristilega leyndardóma eins og skírnina, þá má telja alveg víst, að allir þeir, sem bera börnin sín til skírnar, sé þeir á annað borð ekki með öllu bœnarlausir, biðji þá drottin fyrir þessum börnum sínum. Og þó að nú einhverjir kunni að vera svo kristindómssnauðir, að þeir ekki, jafnvel við það tœkifœri, biðji fyrir börnunum, þá er enginn vafi á því, að svo framarlega sem þeir skoða þessa smælingja eins og sína augasteina, elska þá virkilega heitt og hjartanlega, þá mun á hinni hátíðlegu skírnarstund brennheit ósk rísa upp í sálum þeirra um það, að þessi blessuð börn megi nú verða miklir eða góðir menn eða helzt þetta hvorttveggja. Og er það sýnt, að sama hugsanin vakir við slíkt tœkifœri fyrir öllum almennilegum foreldrum börnunum þeirra til handa eins og vakti fyrir þeim Sebedeussonum með tilliti til sjálfra þeirra, þá er þeir lögðu hina áminnztu bœn fram fyrir Jesúm.

það er fögr ósk hjá þeim, sem er að ganga út í lífið eða er þegar út í það genginn, að mega verða mikill maðr. Og það er engu síðr fögr foreldraósk, að börnin sín megi verða miklir menn. Til hvers sendið þér, sem börn eigið, þessi börn yðar í

skóla? Hví eruð þér, margir hverjir bláfátækir, að brjótast í því, að börnin yðar fái numið eitthvað uppbyggilegt í æskunni? — Margir feðr vinna baki brotnu, og margar mæðr neita sér að all-miklu leyti um nauðsynlega svefnhvíld, draga daglegt brauð af sjálfum sér, lifa við hörmulega fátækan kost, gjöra líf sitt að reglulegri langaföstu — að eins til þess að geta kostað upp á frœðslu og menntan barna sinna. Allt þetta út af þeirri ríku ósk í huga þeirra, að börnin þeirra geti orðið menn, nýtir og uppbyggilegir menn, geti, ef unnt er, orðið að miklum mönnum. En þér, sem viljið verða miklir menn, eða þér, sem svo hjartanlega óskið þess, að börnin yðar fái orðið miklir menn, athugið nú, hvað Jesús sagði við þá Sebedeussonu sem svar upp á beiðni þeirra um að fá að skipa næstu sætin við hann í dýrðarríki hans. Hann sagði: „þið vitið ekki, hvers þið beiðizt; hvort treystið þið ykkr til að drekka þann bikar, sem mér er ætlaðr, eða skírast skírn þeirri, sem eg á fyrir höndum?"

Til þess að verða mikill maðr, í sannleika mikill, mikill frá guðlegu sjónarmiði, verðr maðr fyrst að verða lítill — lítill í sama eða svipuðum skilningi og Jesús gjörðist lítill. það hefir enginn maðr nokkurn tíma í mannkynssögunni orðið verulega mikill maðr, sem ekki áðr hafi orðið að ganga gegnum eitthvað það, er svarar til píslarsögu Jesú. Fyrir sjálfan guðs son hlaut píslarsaga að vera inngangr til dýrðarinnar. Jafnvel hann varð að ganga í krossskóla. því er það, að hann sjálfr, í því hann yfir borðum hinnar síðustu kvöldmáltíðar vígir sig til píslarsögunnar, ber fram þessa bœn: „Faðir, gjör nú son þinn dýrðlegan".— það er guðlegt náttúrulögmál, þetta, að dýrðin næst ekki nema gegnum krossskóla, —niðrlæging, harða baráttu. Sýnið oss, þér, sem þessu mótmælið, einn einasta mikinn mann í mannkynssögunni, er orðið hafi mikill maðr, mikill frá guðlegu sjónarmiði, án þess að hafa gengið í gegnum einhverjar verulegar þrengingar.

Í byrjun þessarar aldar var einn maðr uppi, sem var svo voldugr og svo mikill atgjörvismaðr, að nálega allar menntaþjóðir heimsins urðu að beygja sig fyrir honum. Hann braut eitt landið eftir annað og eina þjóðina eftir aðra undir járnok sitt. Hann sýndist um tíma nærri því hafa örlög alls heimsins í hendi sér. það var Napóleon Bónaparte, hann, sem vanalega er kallaðr Napóleon mikli. Hann þótti mikill, þá er enginn stóð honum á

sporði. En ekki er nú hann, þessi undarlegi og einstaklegi maðr, frá guðlegu sjónarmiði orðinn mikill fyr en mótlætissaga hans er komin yfir hann og hann er í þann veginn að ganga út úr henni, verða útskrifaðr úr krossskólanum. Þá er Napóleon er kominn í útlegð sína á St. Helena í miðju Atlanzhafinu og er farinn að læra að þekkja guð og sjálfan sig, búinn að opna augu sín fyrir hinni kristilegu skoðan á tilverunni, þá er hégómaskaprinn er horfinn og hin tröllaukna drottnunargirnd er brotin á bak aftr í huga hans, hann farinn að beygja sinn vilja undir æðri, guðlegan vilja, hann sjálfr orðinn svo óendanlega lítill í samanburði við Jesúm Krist hinn krossfesta, vitandi það, að sitt stórvirki fellr í rústir, en verk Jesú stendr, hans, sem aldrei greip til vopna og bauð, að slíðrað skyldi hið eina sverð, er nokkurn tíma var brugðið honum og hans málefni til varnar—þá er svona er komið, þá fyrst er þessi maðr orðinn Napóleon mikli.

Vér vitum það vel, að margr hefir komizt í háan sess í heiminum, orðið mikill maðr eftir því, sem í daglegu tali er kallað, án þess að hafa gengið nokkuð það í gegnum, er svarað geti til píslarsögu Jesú Krists. En um slíkan mikilleik er hér ekki að ræða. Vér erum hér að tala um það, að verða mikill maðr í guðlegum skilningi. Og í þeim skilningi má enginn mikill kallast, nema því að eins, að hann sé verulega góðr maðr,—góðr mannlega talað auðvitað, því í fullkominni merking er enginn góðr nema guð einn.

En fær þá enginn orðið mikill maðr í þeim skilningi, sem hér er við átt, nema hann gangi í gegnum líkamlegar kvalir eða þrautir, svarandi til hinna líkamlegu písla frelsarans? Jú, vissulega; enda má því eigi gleyma, að þrautir og þrengingar byrjuðu í æfisögu Jesú löngu áðr en hann var negldr á krossinn. Sálarstríð hans í Getsemane var gengið á undan, og löngu þar á undan hafði hann staðið uppi í hræðilega erviðri andlegri baráttu. Óðar en skírn hans í Jórdan var afstaðin, hófst hin andlega barátta hans. Freistingarsagan er fyrsti þáttrinn í þeirri baráttu, og úr því heldr stríðið áfram nálega óslitið dag eftir dag, mánuð eftir mánuð og ár eftir ár allt til þess, er hann í Getsemane stendr fyrir framan síðasta kapítulann í þeirri stórkostlegu harmsögu.—Og svo segjum vér: Í andlegri baráttu verðr hver sá að hafa átt fyr eða síðar á æfi sinni, sem á að geta farið burt úr

heimi þessum sem virkilegt mikilmenni, og ekki að eins það, heldr líka með guðs hjálp að hafa unnið sigr í þeirri baráttu.

Gleymið eigi þeirri baráttu og þeim sigri, þér, sem óskið yðr þess, að verða miklir menn, og eins þér, sem óskið börnunum yðar þess, að þau fái orðið miklir menn. Gleymið ekki þessari gömlu ritningargrein: „Gegnum margar hörmungar byrjar oss inn að ganga í guðs ríki". Gleymið því ekki, að enginn hefir orðið og enginn getr nokkurn tíma orðið mikill maðr í því, sem gott er, nema hann gangi í krossskólann drottins vors og verði þaðan með heiðri útskrifaðr.

Nú hugsum vér aftr um skírn frelsarans. Vér erum skírðir frá syndunum. Hann er skírðr til syndanna,—vorra synda, mannkynsins synda—, með skírninni vígðr til þess að leysa oss frá syndunum. Skírn Jesú er vígsla til endrlausnarverks hans, og þá um leið vígsla til stríðs og þjáninga; hann er með skírninni vígðr til þess að ganga tafarlaust út í freistingarnar. Og í svari hans til þeirra Sebedeussona talar hann, náttúrlega löngu eftir skírn sína í Jórdan, um skírn, er hann eigi enn eftir. Það er vitanlega hin síðasta píslarsaga hans, er hann þar á við, því hann setr þar þetta tvennt jafnhliða: að drekka þann bikar, er honum sé ætlaðr, og skírast þeirri skírn, sem hann eigi fyrir höndum. Hér höfum vér sambandið á milli hinna tveggja sakramenta, skírnarinnar og kvöldmáltíðarinnar. — Allir kristnir menn hafa skírðir verið, en engu að síðr mega þeir búast við því, svo lengi sem nokkuð er eftir æfinnar, að eiga eftir að skírast. Hinni andlegu eldskírn kristins manns er ekki lokið fyr en æfin er úti. Fyrir eldskírn píslarsögunnar var Jesús dýrðlegr gjörðr. Og fyrir það stríð, sem þar til svarar, í æfisögu lærisveina drottins, auðnast þeim að verða í guðlegum skilningi miklir menn. Án baráttu enginn sigr, og ekki heldr án baráttu unnt að verðskulda það, að heita mikill maðr.

Munið eftir þessu óhjákvæmilega, heilaga náttúrulögmáli, þér, sem gangið með þá eðlilegu ósk, að börnin yðar fái orðið miklir menn. Munið eftir eldraun og eldskírn kristilegs trúarlífs. Ef þér ekki gleymið þessu, þá er ólíklegt, að þér getið stillt yðr um að fara að biðja fyrir börnunum yðar og þá um leið fyrir sjálfum yðr. Með þetta í huganum ætti þeir foreldrar, sem annars ekki hafa beðið, að fá heilaga, ómótstœðilega hvöt til þess

að ganga inn í heim bœnarinnar. Óskin framtíð barnanna viðvíkjandi ætti að geta orðið að kristilegri bœn. Og er þér þá biðjið, þá skuluð þér ekki biðja um það, að börnin yðar eða þér sjálf sleppið endilega hjá slíkri eldraun, sem þegar hefir nefnd verið, því að yrði sú bœn heyrð, þá yrði hvorki börnunum né yðr sjálfum unnt að verða miklir menn. Heldr biðji þess allir kristnir menn, að börnin þeirra og þeir sjálfir fái staðizt þær eldraunir, sem drottni þóknast að láta til þeirra koma, fái gengið út úr þeim freistingum, er fyrir liggja, hreinni, sterkari, betri menn en áðr.

Mótlætið í hinum óendanlega margbreytilegu myndum þess hefir ógn og skelfing í för með sér. Menn hræðast yfir höfuð langaföstu lífsins. Mannshjartað tekr til að slá fljótara og þyngra en ella, þá er eigin kross kemr í augsýn. Á því hneykslist enginn, né skoði það tiltökumál, því Jesús sjálfr sagði, þá er hann fyrirfram hugsaði til píslarsögu sinnar: „Nú er sál mín óróleg“, og rétt áðr en hann var handtekinn í Getsemane þetta við föður sinn á himnum: „Tak þennan kaleik frá mér; ó, að þú vildir taka hann frá mér; ef mögulegt er, þá líði hann frá mér“. En er ótti og angist vill yfir þig leggjast út af andstreymi því, er að þér steðjar, þá reyndu að halda fastri þeirri vissu, að það er einmitt í eldraunum mótlætisins, að það, sem göfugast er í sjálfum þér, fær bezt þróazt, og þú um leið orðið að góðum og miklum manni. Gullið prófast í eldinum. Guðsmyndin kemr—eða á að koma—hrein og skír út úr eldraun lífsins.

Og nú þetta að ending: Hugsum oss, að vér allra snöggvast værum horfnir til Gyðingalands, á þann blett Olíufjallsins, þar sem Jesús var staddr, er hann á pálmadags-innreið sinni til Jerúsalem sá hina helgu borg koma inn í sjóndeildarhringinn og tárin við þá sjón hrundu af augum hans. Myndi þá Jósafatsdalrinn með svæði því, er forðum hét Getsemane, og læknum Kedron liggja fast fram undan oss, á milli vor og fjallsins, þar sem Jerúsalem stendr og hefir staðið eina öldina eftir aðra, svo að segja gegnum alla mannkynssöguna, ímynd hinnar himnesku Jerúsalem, sem öllum guðs börnum er heitið að komast til og fá fyrir eilíft aðsetr að langaföstu þessa jarðneska lífs endaðri. Leiðin til hinnar helgu borgar liggr niðr í dalinn og yfir hann, og önnur leið engin þaðan, er vér erum nú staddir.—Hinn dimmi

dalr með dauðans skugga er næst oss, dalr sorganna og þrenginganna, sem ómögulegt er klaklaust yfir að komast nema frelsarinn sé með.

Vér horfum nú niðr í dalinn, og ef til vill koma tárin fram í augu sumra við þá sjón. En horfum þangað engu að síðr og höldum áfram í Jesú nafni. Þá er komið er yfir um, upp á hið himneska fjall og inn í hina helgu borg, munu tárin af þerruð og lofgjörð rísa upp í sálunum fyrir blessun þá, er drottinn guð almáttugr lét eldraun langaföstunnar hafa í för með sér.

---

Fyrst eftir að séra Magnús Skaftasen fluttist hingað til lands höfðum vér von um, að hann myndi geta hafizt ofrlítið upp úr niðrlæging þeirri, sem hann var kominn í heima á Íslandi fyrir óreglu og þar með fylgjandi vandræði, jafnframt því að ala manninn ár eftir ár á hinum menntunarsnauðari útkjálkum landsins. Það leit fyrst framan af veru hans hér út fyrir, að honum myndi ætla að takast að losa sig við óláns drykkjuskapinn. Hann virtist vera að vakna til alvarlegrar hugsunar um hið þýðingarmikla starf, kristna kennimennsku, er hann hafði verið kallaðr til. Hann sýndist í einlægni langa til að afla sér nýrrar og nauðsynlegrar þekkingar á hinum ýmsu málum kirkju vorrar í þessari heimsálfu og kristindómsins yfir höfuð. Og svo leit þá einnig út fyrir, að koma hans hingað vestr um haf ætlaði að verða honum sjálfum til gæfu og fólki því, er hann dveldi á meðal, til nokkurs gagns. Var þetta ekki lítið gleðiefni öllum þeim, sem voru kunningjar séra Magnúsar og vildu honum vel. En því miðr stóð sú gleði ekki lengi. Hann kastaði trú síns eigin kristna barnalærdóms, er hann hafði verið að kenna alla sína undangengnu prestskapartíð, og flýtti sér úr kirkjufélagi voru. Og um leið fór óðum að losna um allar þær tilraunir til andlegra framfara í lífi hans, sem svo gleðilega sýndist vera farið að bóla á. Hann tók nú sýnilega til að síga aftr andlega niðr á bóginn. Við engu öðru var heldr að búast, þar sem hann úr þessu komst meir og meir í félagsskap og fóstbrœðralag með ýmsum þeim mönnum, sem lægst standa meðal þjóðflokks vors og öðrum fremr eru hér til ills og ógagns.

Það er lærdómsríkt, þótt sorgarefni sé, að athuga, hvernig farið hefir fyrir séra Magnúsi Skaftasen síðan hann tók að óvingast og illskast við kristindóminn og kirkju vora. Margir myndi ætla, að maðr, sem samkvæmt eðlisfari sínu er annar eins meinleysingi og séra Magnús, stœði í daglegu lífi sínu jafnréttr eftir, þótt hann fleygði frá sér trúnni; en nú er sýnt, nokkurn veginn svo greinilega sem verðr, að það dregr slæman dilk eftir sig fyrir lífið, að gjöra út af við hina kristnu barnatrú sína eins og séra Magnús hefir gjört.

Og nú, rétt í því hann frammi fyrir augum almennings er óðum að síga niðr og fœrast lengra út í hið andlega myrkrið, kemr frá honum prentað blað til útbreiðslu vantrúar hans og kristindómshatrs, er hann hefir gefið nafnið „*Dagsbrún*“. Það táknar hið nýja ljós, sem íslenzku þjóðinni á upp að renna við það að troða biblíuna og kristindóminn undir fótunum eins og séra Magnús og allir þessir íslenzku svo kölluðu Únítarar eru byrjaðir á. Þvílík dagsbrún! Þvílíkt ljós!

Séra Magnús Skaftasen var fremr feiminn og óframfœrinn maðr áðr en þessi vantrúar-niðrstigning hans hófst; en nú sést á þessu nýkomna fyrsta númeri af „Dagsbrún"-inni, að öll hans feimni er farin. Hann talar þar með alveg ótrúlegum drýgindum um sjálfan sig og sitt verk; hann talar eins og hann sé einhver mikill spámaðr, er fyrstr allra hafi vakið íslenzku þjóðina af löngum og þungum svefni.

Efnið í þessu nýja málgagni vantrúarinnar er að öðru leyti nákvæmlega eins og í Únítara-ritlingunum, sem ýmsir óvinir kirkjunnar hafa verið að troða upp á fólk vort hér í landinu þessi síðustu ár eftir að þeim tókst að snapa sér út fé hjá innlendum mönnum sjálfum sér og sínum antíkristindómi til viðrlífs. Frumsamið í þessu fyrsta nr.i af blaðinu er mjög lítið; aðalmálið er þýtt úr ensku. Frágangrinn á hvorutveggja er herfilegr.

Séra Magnús vill koma því inn í ókunnuga, að Nýja Ísland hafi í heild sinni gengið úr kirkjufélagi voru um leið og hann; því farast honum í upphafi blaðs þessa þannig orð: „Eins og kunnugt er, höfum vér Ný-Íslendingar sagt oss úr hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi" o. s. frv. Það er búið að ljúga þessu nógu lengi til þess að ýmsir heima á Íslandi sé farnir að trúa því. En það tekst naumast lengr, eftir að mestallt fólk Nýja Íslands er með öllu horfið frá vantrúarboðskap séra Magnúsar og hann er hér um bil hættr að „messa",—og það einmitt á þeim stöðvum nýlendunnar, þar sem hann hafði mest fylgi áðr,—fyrir þá sök, að menn vilja ekki lengr hlusta á vantrúarþvætting hans og guðlast.

Rithöfundr hefir séra Magnús víst aldrei verið mikill, en það er þó eins og einnig í því tilliti hafi þyrmt yfir hann við það að komast í þann andlega félagsskap, sem hann er nú í. Og nær er oss að halda, að það hafi verið meiri mynd á íslenzka stýlnum hans, þegar hann var nýsveinn í skóla, heldr en á þessari nýju ritsmíð hans í fyrsta nr.inu af „Dagsbrún"-inni.

Þess hefir verið getið áðr í „Sameiningunni", hvernig héraðsfundr Eyfirðinga sá í fyrra hljóp á sig, er hann í hugsunarleysi lét opinbera óánœgju í ljósi út af svo kölluðum árásum, er séra Mattías Jokkumsson hefði orðið fyrir í blöðunum. Um þetta atvik kemst séra Magnús svo að orði: „Marga þekkjum vér góða, frjálslynda drengi heima, bæði lærða og leikmenn, en Eyfirðingar hafa tekið heiðrskransinn frá þeim öllum saman"; og enn fremr: „Atburðr þessi mun lengi verða merkissteinn í kirkjusögu Íslands". Það er örðugt að halda sér frá að brosa að öðru eins orðalagi.

Í máli því, er séra Magnús hefir myndazt við að þýða úr ensku handa blaði sínu, stendr þetta: „En þó nú vísindin neyðist til, að tæta þessa gömlu sköpunarsögu í sundr, vilja þau ekki eyðileggja hana. Þau vilja auka hana" o. s. frv. „Vísindin vilja sýna oss" o. s. frv. — Það „*vill duga*", þetta sýnishorn af þýðingunum í „Dagsbrún"-inni!

Það er meira en lítið í húfi, ef þjóðin íslenzka skyldi nú ekki vilja meðtaka hið spámannlega orð séra Magnúsar og styðja „Dagsbrún"-ina, því hann segir: „Nú er tíminn, leggið ekki hendur í skaut, ef að hreifing þessari koma hnekkir (sic!), þá er vanséð hvenær hún rís úr dvalanum aptur. Helfjötur myrkurs og skelfingar mun þá leggjast yfir marga mannssál." —!

Í þeirri von, að séra Magnús sé ekki alveg búinn að gleyma því, sem hann á að hafa lært í skóla forðum, vildum vér beina þessum orðum að honum út af hinum óþolanda oflátungsskap hans í þessu dœmalausa blaði: *Quem ad finem tua sese effrenata jactabit audacia?*

---

Fólkstalan í Jerúsalem er nú að eins 41 þúsund, og eru af því fólki 25 þúsundir Gyðinga, 8 þúsundir Múhameds-trúarmanna og 8 þúsundir kristinna manna. Hve mannmörg hin helga borg hafi verið í fornöld verðr eigi sagt með neinni vissu. *Josephus*, sagnaritari Gyðinga, segir, að á páskahátíðinni hafi þar jafnaðarlega verið saman komnar 3 milíónir manna, að heil milíón hafi látið lífið meðan borgin var umsetin af Rómverjum áðr en Títus keisari lét leggja hana í eyði, og að 100 þúsundir hafi komizt undan á flótta. Þessar tvær síðast nefndu tölur eru vafulaust stórkostlega ýktar. *Tacitus*, hinn rómverski söguritari, telr borgarbúa verið hafa 600 þúsunda. En sumir fornfrœðingar halda því fram, að íbúatala Jerúsalems hafi í mesta lagi getað verið milli 60 og 70 þúsunda. — Alls eru nú að eins rúmlega 42 þúsundir Gyðinga í landinu helga, og er það merkilega lítið brot af þeim 6 milíónum og 200 þúsundum Gyðinga, sem talið er að á þessum tíma sé uppi í heiminum.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; annar ársfjórðungr 1893.

1. lexía, sunnud. 2. Apr.: Mótlæti Jobs (Job 2, 1—10);
eða: Upprisa Krists (Matt. 28, 1—10) (páskalexía).
2. lexía, sunnud. 9. Apr.: Líkn með þraut (Job 5, 17—27).
3. lexía, sunnud. 16. Apr.: Job skýtr máli sínu til guðs (Job 23, 1—10).
4. lexía, sunnud. 23. Apr.: Job játast fyrir drottni og fær bót rauna sinna (Job 42, 1—10).
5. lexía, sunnud. 30. Apr.: Viðvörun spekinnar (Orðskv. 1, 20—33).

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl í Vestrheimi.*

ÁTTUNDI ÁRGANGR:

## Marz 1893—Febr. 1894.

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

Útgáfunefnd: Jón Bjarnason, Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Steingr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

WINNIPEG.

PRENTUÐ Í PRENTSMIÐJU LÖGBERGS.

# EFNI:

Bls.
Blóðskuldin mikla. Eftir Farrar.................. 2—4
þrjár tegundir manna í kirkjunni. Eftir Chr. Bruun..18—20
þýðing Jesú upprisu. Préd. eftir J. Bj..............49—60
Fjársjóðrinn mikli. Préd. eftir J. Bj...............130—138

---

Séra Valdemar Briem í *Sam*.......................... 5—8
Misrituð saga............................... 8—14
þjóðarmein...................................20—27
Kirkjurœkni. Eftir séra Fr. J. B.................35—42
Merkileg fornrit fundin.........................42—44
„Hann sagði það sjálfr." Eftir séra Fr. J. B..........45—48
„Ný kristileg smárit". Eftir séra Fr. J. B............82—85
Andlegar horfur hjá þjóð vorri. Brot úr bréfi........87—89
Biblían ekki af manna völdum. Eftir Henry Rogers og séra Steingr. þorláksson................. 89—91
*Synódus*................................... 91—93
Framtíðarstefna kirkjufélags vors.............. 98—103
„Ísland að blása upp"......................103—105
Skólamálið.................................115—121
Árás séra Ólafs í Arnarbœli á vestr-íslenzku prestana.121—123
Georg Brandes dœmdr af Thorel...............139—141
Um *Revials* eftir Spurgeon..................... 142
Eitthvað má til að gjöra. Úr *Workman*...........148—151
*Sunday School Times* um það, hvað kristindóminum líðr151—152
Háskólamálið................................152—156
Ritstjóri *Þjóðólfs* í reiði sinni ...............156—159
Má reiða sig á guðspjallasöguna? Eftir Godet. 163-172 og 178-184
Lausn kirkjunnar á Ísl. við ríkið ..............173—174
Niðrlag Markúsar guðspjalls....................185—186

---

Páskasálmr, eftir Grundtvig, þýddr af séra V. Briem .....1—2
Uppstigningardagssálmr, eftir Nordal Bruun, þýddr af séra V. Briem.............................17—18
Fermingarsálmr, eftir séra Lárus Halldórsson..........27—28
Hvítasunnusálmr, eftir Boye, þýddr af séra V. B......33—34
Sálmr eftir séra L. H. ...........................48—49
42. Davíðs sálmr, eftir séra V. B...................81—82
Sálmr eftir séra L. H..............................85—87
77. Davíðs sálmr, eftir séra V. B ..................97—98
Sálmr eftir Gerhard, þýddr af séra Steindór Briem...106—108
78. Davíðs sálmr, eftir séra V. B...................113—114
*Rock of Ages*, eftir Toplady. þýðing séra Mattíasar

Jokkumssonar..........................126—127
130. Davíðs sálmr, eftir séra V. B..................129—130
*Nearer my God to Thee,* eftir Sarah F. Adams. þýðing séra M. J..........................138—139
Jóla-engillinn, eftir séra Steindór Briem.......... 145—147
Fátœka barnið, eftir sama.........:...........147—148
Lukkan, eftir Ingeman. þýðing séra M. J..:.......161—163
Sálmr, eftir Sthen, þýddr af séra V. B..............172—173
Morgunsálmr eftir Ingemann, þýddr af séra M. J.....177—178
þakkarorð til lektors séra H. Hálfdanars., eftir V. B..187—188

Smágreinir og fréttir:
Oflof um Ísland 14—Framkoma Jóns Ólafssonar 15—Beecher og Ingersoll 28—Selkirk-söfnuðr 29—Marskall-kirkja 31— Júbílhátíð Svía 31—Únítarar 32—Nýtt sœnskt kirkjublað 32—Nýir skólar lúterskir 32— Höfðingleg gjöf 63—Fyrirlestrar á kirkjuþingi 80—Prestvígsla 80—Séra Hafsteinn Pétrsson til Winnipeg 80—Háskólinn í Dorpat 93—Selkirk-kirkja vígð 94—Fólkstal í söfnuðum kirkjufélagsins 94—Sunnudagsskólaskýrsla 95 —Séra Matthías Jokkumsson hér vestra 95—Séra Jónas A. Sigurðsson settr í embætti sitt 96—Úr rœðu eftir séra M. J. 105— Chicago 150—Úr æfisögu hinna nývígðu presta 110—Mead um Ísland 111—Aldamót 112—Fyrirlestr hr. Sæm. Eyjólfssonar 123 —Dr. Grímr Thomsen í *Andvara* um Pétr biskup 125—Séra M. J. kominn heim 127— Ritst. *Sam.* heldr fyrirlestr um *kærleikann* 127—Séra Steingrímr þorláksson til Norvegs 127—Fjárhagr *Sam.* 127—Sýnishorn af andanum við ísl. menntastofnan 142—Pétrssöfnuðr nýmyndaðr o. fl. 143—Barnasálmar séra V. B. og ísl. þýðingar á ritlingum Drummonds 159—Hið endrbœtta safn.lagafrv. 159—Hallson-söfnuðr lífgaðr við 160—Bókasafn séra Eggerts Briem 174—† Dr. Philip Schaff 175—Hlutfall milli fólksfjölda og kirkna 175—Á Nýju Hebrídum 176—Lút. skólar í Ameríku 176— † Séra Helgi Hálfdanarson 186.

Frumvarp til safnaðarlaga, endrbœtt................61—63.

Ágrip af gjörðabók 9. ársþings kirkjufélagsins.........65—80.

Sunnudagsskólalexíur 16, 32, 64, 80, 96, 111, 128, 144, 160, 176. 188.

Leiðréttingar...................................144.

